

VERKALÝÐSBLAÐIÐ

Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

Stéttabaráttan



10. tbl. 9. árg. | 27. 5.–10. 6. 1980 | Verð kr. 300,-


*Sameining EIK(m-l) og KFÍ/ML*

## Kommúnistasamtökin stofnuð

Miðvikudaginn 21. maí voru stofnuð í Reykjavík ný samtök marx-lenínista á Íslandi, Kommúnistasamtökin.

Með stofnun þeirra er lokið áralangri sundrungu marx-lenínista í tvenn samtök, Einingarsamtök kommúnista (m-l) og Kommúnistaflokks Íslands m-l.

Sundrung marx-lenínísku hreyfingarinnar hefur verið verið afar skaðleg. Hún hefur leitt til þess að marx-lenínistar hafa eytt meiri tíma og kröftum í innbyrðis átök, keppst við að ganga hver af öðrum dauðum, í stað þess að sameinast um það mikilvægasta markmið hreyfingarinnar að stofna og byggja upp hér á landi öflugan kommúnískan verkalýðsflokk, sem rótfestur er í íslesn íslenskri stéttabaráttu.

Með stofnun Kommúnistasamtakanna er sundrungu marx-lenínísku hreyfingarinnar ekki endanlega eytt. Enn eru margir utan þeirra sem eiga samleið með marx-lenínismanum. Enn er margt framsækið fólk í landinu sem vill og þarf að skipuleggja sig í marx-lenínísk stjórnmálasamtök. Enn er margt fólk utan Kommúnistasamtakanna sem hefur hafnað Alþýðubandalaginu sem tæki til að koma á sósíalisma á Íslandi.

Stofnun Kommúnistasamtakanna er þó sjömílnaskref í átt til sameiningar allra þessara afla í einum verkalýðsflokki. Með henni skapast færi á að einbeita kröftum marx-lenínista að meginverkefnum hreyfingarinnar og velta af stað hreyfingu sem ekki verður stöðvuð.

### Útgáfa stofnsamþykkta

Á stofnfundi Kommúnistasamtakanna var samþykkt til laga að stofnsamþykkt sem verður nokkurskonar bráðabirgðastefnuskrá samtakanna fyrst um sinn. Ástæðan er aðallega að ekki vannst tími til að gera út um öll mál og skynsamlegt þótti að gera það innan einna samtaka. Að auki var samþykkt stjórn-

framhald á síðu 5

**Hægagangur samningaviðræðnanna:**

# TÖKUM MÁLIN í eigin hendur



Hægagangur í samningaviðræðunum milli ASÍ og VSÍ annars vegar og BSRB og ríkisvaldsins hins vegar veldur launafólki bæði furðu og megnri óánægju.

Ennþá er undrunin ráðandi, óánægjan hefur ekki fundið annan farveg en mismunandi harðorðar mótmælaályktanir.

Það er mikilvægt að beina óánægjunni út í baráttu. Það er mikilvægt að taka ráðin af ráðherrahollri verkalýðsforystu ASÍ og BSRB. Það er mikilvægt að launafólk sýni þeim herrum hvað það vill.

Það þarf að smíða forystu fyrir þessari óánægju. Einhver þarf að smíða forystu fyrir þessari óánægju. Einhver þarf að taka frumkvæðið. Þetta frumkvæði og þessi forysta liggur nú hjá þeim stéttarfélögum sem hafa markað sér einhverja sérstöðu í yfirstandandi samningaviðræðum.

Sú skylda hvílir nú á herðum Málm- og skipasmiðasambandsins, bókagerðarfélögunum, ýmsum félögum opinberra starfsmanna og Sóknar að blása til baráttu gegn auðvaldsþjónkun æðstu forystu verkalýðshreyfingarinnar. Ef frumkvæðið kemur ekki þaðan er hætta á að óánægjuraddirnar einangrist við einstaka vinstri menn annars vegar og forystulausan verkalýð hins vegar.

Fundir, útifundir, mótmælaaðgerðir og hvers konar áróðursaðgerðir eru mikilvægar til að hefja hagsmunabaráttu verkalýðsins og vekja upp virkilega fjöldahreyfingu sem sækir kjarabæturnar í vasa atvinnurekendanna.

óhs.

*Jan Mayen samkomulagið:*

# SANNGIRNI FYRIR SUMA

Jan Mayen samningarnir hafa nú verið samþykktir. Flestir íslenskir stjórnmálamenn og hagsmunaaðilar hafa lýst sig ánægða með þá eftir atvikum, að undanskildum þingflokki og forystuliði Alþýðubandalagsins.

Íslenska samninganefndin lagði upp með 4 áhersluatriði í fararnesti. Þau voru: 1. viðurkenning Norðmanna á fullum 200 mílum til Jan Mayen, 2. sameiginlegur veiðiréttur á Jan Mayen svæðinu, 3. einkaréttur Íslendinga á loðnustofninum, 4. sameiginleg hafsbotnsréttindi á Jan Mayen svæðinu og gagnkvæmt neitunarvald um vinnslu.

Engin þessara krafna náðist fram. En er þá samningurinn viðunandi?



Frá Jan Mayen.

### Grænlendingar útilokaðir

Þótt ekki sé kveðið á í samningunum um viðurkenningu Norðmanna á fullum 200 mílum Íslendinga til Jan Mayen nema þá á afar loðinn hátt, verður að líta svo á að þeir hafi viðurkennt þær í raun. Orðalagið í samningnum er haft einmitt svo loðið vegna hagsmuna bæði íslensku og norsku borgarastéttarinnar. Með því að skilja málið eftir opið á pappírunum hafa þær frjálsar hendur um að standa sameiginlega gegn kröfum Grænlendinga um fullar 200 mílur í átt til Jan Mayen.

### Ágirnd en ekki nauðsyn

Krafan um sameiginlegan veiðirétt grundvallast ekki á neinum ákveðnum hagsmunum Íslendinga. Hún byggir á almennri græðgi íslenska útgerðarauðvaldsins, að fá að veiða hvað sem er, hvar sem er, í hvað ríkum mæli sem er. En þar sem auðherrar hugsa sjaldnast til framtíðarinnar og Íslendingar veiða nú lítið annað en loðnu á Jan Mayen svæðinu varð þessi krafa ein þeirra fyrstu sem var látin fjúka.

framhald á síðu 5



# Forsetaframboð

Dufþakur

Um þessar mundir er að renna út frestur til framboðs í komandi forsetakosningum og því má fastlega gera ráð fyrir, að fleiri bætist ekki í þann hóp manna, sem nú þegar hafa gefið kost á sér.

Skoðanakannanir - sem nú eru orðnar ákaflega vinsælt fyrirbæri fyrir hverjar kosningar - benda til þess, að Guðlaugur Þorvaldsson og Vigdís Finnbogadóttir séu helstu keppinautarnir um embættið á Bessastöðum. Þó auðvitað sé varlegt að treysta á slíkar skoðanakannanir, þá geta þær verið varhugaverðar að því leyti, að þær kunna að hafa áhrif á afstöðu fólks varðandi val frambjóðenda. Mörgum, sem enn hafa ekki mótað afstöðu sína til viðkomandi frambjóðenda, hættir sjálfsagt til að fylgja straumnum og kjósa annan hvorn þeirra, sem líklegastur er til að hreppa hnossið.

Segja má, að þessar forsetakosningar séu ekki eins "pólitískar" og fyrir 12 árum þegar valið stóð milli Gunnars Thoroddsens og Kristjáns Eldjárns. Forystulið Sjálfstæðisflokksins og Morgunblaðið studdu við bakið á Gunnari, en vinstrimenn, flestallir, kusu Kristján.

Nú er breiddin meiri og það eru ekki pólitískar skoðanir - nema í undantekningartilfellum - sem ráða vali frambjóðanda. Aðeins einn frambjóðendanna, Albert Guðmundsson, heildsali og þingmaður, sem reyndar var svo fyrirhyggjusamur, að lýsa yfir framboði sínu löngu áður en núverandi forseti lýsti því opinberlega yfir, að hann hygðist ekki gefa kost á sér til endurkjörs, hefur á sér ákveðinn pólitískan stimpil. Því fer þó fjarri að hann njóti almenns stuðnings innan síns flokks. Út af fyrir sig hefur það verið skemmtileg lesning, að kíkja á þau nöfn fylgjenda Alberts, sem auglýst hafa stuðning sinn í dagblöðunum að undanförnu. Þar má finna þekkta poppara, fótboltahetjur og nú síðast en ekki síst nokkra valinkunna verkalýðsforingja. Flestir þeirra eru af sama sauðarhúsi (þ.e. sama flokki) og Albert, nema þau Guðmundur J. Guðmundsson og Aðalheiður Bjarnfreðsdóttir. Í stuðningsyfirlýsingu síðasttalda hópsins má m.a. lesa, að Albert sé dugmikill drengskaparmaður, sem hvers manns vanda vill leysa, fyrir nú utan mannkostina, reynsluna og hina glæsilegu framkomu. Ætli þetta sæmdarfólk sé búið að gleyma því, að aðeins fyrir fáeinum árum vildi heildsalanefna þessi, einn allra þingmanna, láta banna öll verkföll!

Um aðra frambjóðendur, má segja, að þetta sé allt sæmdarfólk. Hér skal ekki rekinn áróður fyrir einum fremur en öðrum, enda eru kosningar sem þessar persónubundnar og valið meira og minna tilfinningalegs eðlis.

Það hefur óneitanlega vakið athygli, að í fyrsta skipti í sögu lýðveldisins er kona í framboði til forseta. Vigdís Finnbogadóttir hefur nokkuð látið að sér kveða í menningarmálum og gegnt slíkum störfum af samviskusemi, eftir því sem best verður vitað. Og áreiðanlega er hún jafnoki karlframbjóðendanna. Í þessu sambandi er skemmtilegt að minnast þess, að áður en Vigdís gaf kost á sér, ætluðu kvennréttindafélög ýmis konar að vinna af atorku að kvennaframboði í forsetakosningunum, en eftir að framboð Vigdísar var staðreynd hljóðnuðu þessar raddir og það hefur komið á daginn, að það eru ekkert síður karlmenn en kvenmenn, sem veita Vigdísi stuðning.

Pétur Thorsteinsson er líklega sá frambjóðendanna, sem hvað mesta reynslu hefur í þeim störfum, sem snerta embættið að Bessastöðum. Hann hefur verið sendiherra í næstum öllum heimsálfum og komið fram sem fulltrúi Íslands gagnvart fjölmörgum og ólíkum ríkjum.

Það skiptir auðvitað miklu máli hver það verður, sem fer með embætti forseta næstu fjögur árin eða lengur. Það er ekki einungis um að ræða að standa fyrir veisluhöldum að Bessastöðum og taka í höndina á erlendum þjóðhöfðingjum að því getur komið, að forsetinn verði að taka ákvarðanir, sem skipta sköpum fyrir heill þjóðarinnar og sjálfstæði landsins. Slíkt ber að hafa í huga, þegar krossa skal við eitthvert þeirra nafna, sem til greina koma.

# Gegn lagaboði — en styðjum hlutfallskosningar

Hlutfallskosningar í stéttarfélögunum hafa nokkuð verið til umræðu nú undanfarið, vegna tillögu Péturs Sigurðssonar á Alþingi um það mál. Pétur vill lögbinda hlutfallskosningar í stéttarfélögunum.

Allmörg stéttarfélög hafa mótmælt frumvarpi Péturs, og er það vel, og brýnst að berjast gegn öllum lagaboðum um innri mál stéttarfélaganna.

innlent viðhorf

## Hlutfallskosningar lýðræðislegri

Ég er á móti frumvarpi Péturs af þessum ástæðum. Hins vegar tel ég mig stuðningsmann þessa kosningafyrirkomulags.

Ástæðurnar eru einkum eftirfarandi:

Í fyrsta lagi sýnist mér, að þetta fyrirkomulag sé til þess fallið að efla stéttareiningu vinnandi fólks. Stéttarfélögin eiga að vera þverpólitísk samtök, óbundin öllum stjórnmálaflokkum. Eðli þeirra er að vera varnartæki verkalýðsins í baráttunni við auðstéttina, sérlega kjarabaráttunni og helsta markmiðið að safna saman sem stærstum hluta vinnandi fólks á grundvelli stéttarhagsmuna sinna.

Kosninga fyrirkomulag það sem nú er tíðkað er til þess fallið að auka sundrungu innan félaganna, þar sem aðeins ein stefna fær að koma fram innan stjórnarinnar, sem þá gjarnan er flokkspólitískur einlitur.

Af þessu leiðir að erfiðara er en ella að sameina þorra félagsmanna.

## Jafngilt æviráðningu

Í mörgum tilvikum hefur þetta fyrirkomulag jafngilt æviráðningu í formannsstólum félaganna. Óánægðir félagsmenn sjá að þeir hafa litla möguleika, til sigurs í kosningum í fyrstu atrennu og forsvarsmenn félaganna gæta þess vandlega að halda reynslu og þekkingu að sem mestu leyti í sínum höndum. Undirbúningur kosninganna sjálfra er síðan gífurlegt fyrirtæki og ekki á færi nema allvel skipulagðrar andstöðu að gangast í slíku.



Hlutfallskosningar eru sjálfsagt lýðræðismál í verkalýðsfélögunum, en kemur ekki Alþingi við.

## Útibú stjórnmálaflokka

Hlutfallskosningar gætu verið eitt af mörgum skrefum í þá átt að breyta mörgum stéttarfélögum frá því að vera útibú eins eða annars stjórnmálaflokks yfir í að vera samfylking verkafólks um brýnustu hagsmunamál þess.

S.I.

# Kornið tekið með valdi af bændum

erlent viðhorf

Nú eru liðin 5 ár frá því að Víetnamstríðinu lauk. Hvað tók við eftir að bandarísku stríðsvélinni var kastað á sjóinn, eftir að fátæk þjóð vann sigur á risaveldinu í langvinnu stríði?



Hér flytja víetnamskir flutningabílar korn frá Kampútseu.

Allar áætlanir sem settar voru um uppbyggingu landsins hafa farið út um þúfur. Endursameining Norður- og Suður-Víetnam hefur orðið með þeim hætti að Suður-Víetnamar eru enn undir oki utanaðkomandi, nú herranna frá Hanoi.

Það sem alþýðan í Víetnam þráði eftir áratuga stríð var friður og uppbygging. Til þess var barist að víetnamska þjóðin fengi að ráða málum sínum sjálf. Í stað þess hefur hernaðarstefna haukanna í Hanoi ofsóknir á hendur þjóðerntröllriðið öllu undir sérstöku gæðaeftirliti frá Kreml. Í stað efnahagsuppbyggingar kom aukin hervæðing. Í stað friðar komu isminnihlutum, einkum fólki af kínverskum uppruna og flóttamannavandamál sem enn sér ekki fyrir endann á. Í stað vinsamlegrar sambúðar við nágrannalöndin komu auknar viðsjár og hernám Laos og Kampútseu og skærur við Kína.

Alþýðan í Víetnam býr nú við sífelldan skort á helstu matvælum. Svartur markaður blómstrar og yfirvöld hafa fyrirskipað harðar refsingar ef bændur skila ekki tilskildu magni kornframleiðslunnar.

## Kornið tekið lögtaki

Kornframleiðslan í Víetnam hefur minnkað stöðugt frá því 1975. Stjórnin hefur samt ekki viljað minnka kvótann fyrir það magn sem hver bóndi á að skila. Þetta hefur leitt til þess að settar hafa verið af stað herferðir til þess að innheimta kornið.

Framkvæmdastjórn flokksins gerði samþykkt um að héraðsstjórnir skuli nota allar aðferðir til þess að innheimta nægjanlega miklar kornbirgðir. Framkvæmdastjórnin benti á Mekongóshólmasvæðið sem svæði þar sem erfiðast væri að ná inn kornkvótunum.

Í hinu opinbera blaði Nhan Dan hefur leiðandi flokksmeðlimum og almennum félögum verið hótað brottrekstri og stöðumissi takist þeim ekki að uppfylla kvótana.

framhald á síðu 3

VERKALÝÐSBLAÐIÐ Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist! Stéttabaráttan

Útgefendur: Einingarsamtök kommúnista (m-l) og Kommúnistaflokkur Íslands m-l
Ritstjórar: Eiríkur Brynjólfsson
Ómar Harðarson (ábm)
Aðsetur: Frakkastígur 14 (í húsnæði Októberbúðar)
Opnunartími: kl. 8.30 - 12.30 alla virka daga
Sími: 29212
Pósthólf: 5186, 125 Reykjavík
Gírónr.: 27810-6, 12200-9
Prentað í prentsmiðju blaðsins

# Samvinna er fyrsta skrefið í baráttu fyrir sósíalisma

Þau sögulegu og tímabæru tíðindi hafa gerst að Kommúnistaflokkur Íslands og Einingarsamtökin hafa sameinast í ein samtök, Kommúnistasamtökin.

Málgögn samtakanna voru sameinuð í byrjun þessa árs en frá stofnun Kommúnistasamtakanna mun málgagnið bera nafnið Verkalýðsblaðið.

Þeim sem fylgst hafa með þessum samtökum undanfarin ár kemur varla á óvart að þessi sameining hefur orðið. Stefna og starfshættir samtakanna tveggja hefur verið það lík að ekki hefur réttlætt klofning í tvenn samtök Raunar má telja líklegt að allir þeir sem nú standi að þessari sameiningu telji að hún hefði mátt gerast miklu fyrr.

En sameiningin er ekki endir neins heldur upphaf. Því ber ekki að leyna að ýms ágreiningsefni eru til milli félaganna. Úrlausn þeirra var hins vegar skotið á frest í ljósi þess að vænlegra til árangurs væri að leysa þau innan einna samtaka.

Mikilvægi þessarar sameiningar liggur í því að kommúninstar hafa með þessu snúið baki við klofningi og lagt út á braut sameiningar og samvinnu. Samvinna mismunandi sósíalískra afla er nauðsynleg forsenda fyrir árangursríkri baráttu fyrir sósíalisma. Hinum nýju samtökum er nauðsyn að vinna með öðrum sósíalískum öflum í þessu landi með það fyrir augum að samstilla kraftana.

Til þess þurfa hin nýju samtök að taka þátt í lífi og starfi fjöldans, starfa innan fjöldahreyfinga að áhuga- og baráttumálum fjöldans. Það er mjög brýnt verkefni að brjótast út úr einangruninni sem bæði samtök kommúnista hafa verið í fram að þessu.

Jafnframt þessu verður að styrkja og efla samtök kommúnista þannig að þau verði þess megnug að sinna hlutverki sínu.

Kommúnísk hreyfing á Íslandi er ekki öflug. Þess vegna ber henni að sameina kraftana sem mest, vinna saman.

Hin nýju kommúnísku samtök hafa sett það á verkefnalista sinn að smíða stefnuskrá. Til þess að sú stefnuskrá þjóni því marki að auka samvinnu sósíalískra afla í landinu er nauðsynlegt að skoðanabaráttan fari fram opinskátt og fólk utan samtakanna taki þar þátt.

eb.






Kreppa vinstri hreyfingarinnar?

# Tvö ár í stríðið?

"Samkvæmt heimildum okkar ofarlega í sovéska valdakerfinu var tekin afgerandi ákvörðun í Kreml vorið 1979. Það á að kæfa andófið innanlands og leggja undir sig lönd heimsins. Afganistan er bara byrjunin".

Þetta segir sovéski rithöfundurinn og flóttamaðurinn Valdimir Maximov í Stokkhólmi í febrúar. Hann er ritstjóri Kontinent, eins þekktasta tímarits andófsmanna í A-Evrópu.

"Stöðvi menn ekki Sovétríkin í Afganistan halda þau áfram. Júgóslavía eða Finnland geta orðið næst í röðinni. Næstu 2 - 3 árin eru afgerandi."

(Viðtal, Gnistan nr. 9)

# Innflutningur og uppsagnir

Hafið þið heyrt um yfirvafandi kreppu í íslenskum sælgætisiðnaði, lesendur góðir? Ef hún verður á næstunni er hún hóflausum innflutningi á erlendu sælgæti að kenna. Eigendur fyrirtækja í sælgætisframleiðslu eru misáhyggjufullir - sumir hafa þegar sagt upp mannskap með fyrirvara. Ekki er að sjá að Iðja, félag verksmiðjufólks í Reykjavík, hafi hreyft sig sérstaklega í tilefni af ástandinu.

Það hefur heyrst að fyrirtækjahringur Geirs Hallgrímssonar og có sem í eru m.a. H. Ben, og sælgætisverksmiðjan sem framleiðir vel þekkt Síríus-súkkulaði, eigi athyglisverðan hlut að máli þessu. Meðan eitt fyrirtækið kvartar yfir minnkandi sölu og hugsanlegum uppsögnum, flytur annað inn Cadbury's - súkkulaði frá Englandi. Þetta góðgæti er að verða vinsælla en Síríus súkkulaði.

Góðkunn sannindi kenna okkur að auðstéttin er samviskulaus á höttunum eftir hámarksgróða, - tilgangurinn helgar meðalið. Ef fregnin um Geirshringinn er sönn, og það er hún að öllu óbreyttu, þá er framkoma peningafurstanna lýsandi dæmi um stéttina.

- agé.

SAGNIR
BLAÐ SAGNFRÆÐINEMA

*Blað sagnfræðinema*

Út er komið blað sagnfræðinema. Heitir það Sagnir. Sagnir er 86 blaðsíður. Þetta mun vera í annað skipti sem sagnfræðinemar gefa út blað. Í hitteðfyrra gáfu þeir úr Hasarblaðið. Urðu vinsældir þess litlar.

Sagnir er vandað blað og fjölbreytt að efni. Í því eru viðtöl og ritgerðir um eitt og annað, t.d. svör lektoranna Gunnars Karlssonar og Þórs Whiteheads við spurningunni: Er hægt að nota söguna í pólitískum tilgangi? Ef svo er, hvernig hefur það þá helst verið gert á Íslandi?

Þá eru í blaðinu hringborðsumræður 3 sagnfræðinga um stöðu íslenskrar sagnfræði, viðtal við Vilmund Gylfason sem er sagnfræðingur að mennt, ritgerð eftir Ólaf Friðriksson um framboð smáflokka til Alþingis 1942-1974 og ritgerð eftir Hasarblaðið Brodda Broddason um afstöðu Verkalýðsblaðsins og Þjóðviljans til stórveldanna 1933-1939.

Í niðurstöðum sínum segir Broddi m.a.: "Utanríkisstefna þeirra tók mið af Svoétríkjunum og hagsmunum þeirra. Þeir trúðu því að Sovétríkin væru af hinu góða og þess vegna tókst þeim ævinlega að berja í alla þá bresti, sem komu í trú þeirra.....allar vonir sósíalista voru bundnar við það, að Sovétríkin stæðust eldskírn sína. Þess vegna var....vígorð þeirra: Verndum Sovétríkin og þar með sósíalismann."

Þá má nefna af efni blaðsins frásögn af sögukennslu í dönskum skólum sem lenti nýlega í ógöngum vegna ófgakenndra breytinga.

Sagnir eru hræódýrar og kosta aðeins kr. 2230.- í Bókasölu stúdenta. Breytist í Október ef blaðið kemur þangað.

Baldur.

# Forysta ASÍ vinnur gegn verkamanninum

Prentarinn 9-12/79

Í nýútkomnum Prentara, málgagni Hins íslenska prentarafélags, skrifar Þórir Guðjónsson fyrrver. varaformaður HÍP, leiðara. Þar segir m.a.:

"Á sama tíma og forysta verkalýðsins hagar sér þannig er stöðugt gengið lengra og harðar fram í því að skerða sem mest kaupmátt launa hins almenna launamanns. Þá vakna enn einu sinni, því þetta er alls ekki í fyrsta skipti sem slíkt hendir, mjög áleitnar spurningar. Fyrir hvern eða hverja er verkalýðsforystan að vinna? Fyrir sig sjálfa? Fyrir flokkinn sinn? Fyrir VSÍ? Eitt er þó alveg ljóst, hún vinnur ekki fyrir verkamanninn, frekar gegn honum, að minnsta kosti hvað þessi mál varðar....

Verkalýðshreyfingin með ASÍ í broddi fylkingar er á villigötum í samningamálunum nú sem undanfarin ár. ASÍ og aðildarfélög þess eiga að setja fram sameiginlegar kröfur um mál er snúa að löggjafanum, atvinnuöryggi, vinnuvernd, félagslegum umbótum og slíku. Hvert einstakt félag á að setja fram sínar kaupkröfur, fyrirkomulag kaupmáttartryggingar og öll sín innri mál.

Verkalýðshreyfingin stæði ekki eins höllum fæti í dag og raun ber vitni, hefði aldrei verið ljáð máls á þeirri kröfu VSÍ, að ASÍ safnaði öllum kröfum á eina hendi og kröfurnar síðan unnar upp á hag-, viðskipta- og lögfræðinga máta - í stað þess, eins og gert var með góðum árangri í áratugi, að láta brjóstvitið, skynsemina og nauðsyn þess að lifa mannsæmandi lífi ráða."

framhald af síðu 2

## Kornið tekið með valdi af bændum

Í samþykkt sem ríkisstjórnin gerði fyrir skömmu segir m.a.: Á undanförnum árum hefur kornframleiðslan minnkað víða, bæði í heildarmagni og á hverja einingu ræktarsvæðis. Meðalkornkvótinn á mann hefur þar af leiðandi minnkað... Landið flytur inn sífellt meira af matarkorni. Ástandið í kornöfluninni verður stöðugt verra.

Ástandið nú í Víetnam er svo illt að það fólk sem býr í þeim fær nú minna korn en það fékk á meðan þjóðfrelsisstríðið geisaði og kjör bænda verða einnig stöðugt verri.

# Óumdeildur sannleikur gærdagsins getur verið lygi í dag

Umræðan í Verkalýðsblaðinu-Stéttabaráttunni um NATO, Kanaherinn og stríðshættuna hefur enn ekki náð að springa út og hefur leiðst inn á of þröngar brautir. Þessi umræða kemur í kjölfar hernáms Afganistan og mótmælaaðgerða gegn því, sem maóistar tóku frumkvæði að og fengu til liðs við sig Heimdellinga og fleiri ungpólitíkusa. Ég er ánægður með þá nýbreytni sem þar var við höfð. Það verður bara að hafa það, þótt kreddubundnir og staðnaðir forkólfar Alþýðubandalagsins og Fylkingarinnar hafi kosið að vera stikkfrí í það skipti. Okkur gefast nóg tækifæri til að taka þátt í baráttu gegn bandarísku heimsvaldastefnunni í annan tíma. Við þurfum vissulega að berjast gegn báðum risaveldunum, en ekki endilega gegn þeim báðum samtímis. Að öllu jöfnu er það skynsamlegri herstjórnarlist að taka einn óvin í einu. Auk þess held ég að Heimdellingar geti verið traustari í baráttunni gegn Sovét heldur en margir Fylkingarmenn og sumir Alþýðubandalagsmenn.

Mér hefur geðjast vel að skrifum Kára um þessi mál. Hann leggur áherslu á það, sem mér finnst skipta máli: Að heimurinn er að breytast og maður á alltaf á hættu, að óumdeildur sannleikur gærdagsins sé orðinn lygi í dag. Við þurfum að líta vel í kringum okkur og horfast í augu við það sem er. Það gerir líka flest fólk og sér - líkt og við maóistarnir - að Sovétríkin eru búin að taka fram úr Bandaríkjunum í hervæðingu og stríðsrekstri út um allan heim. Það er ekki nóg að einblína bara á Kanaherinn og NATO sem eina-gruð fyrirbrigði. Við þurfum að móta stefnu í utanríkismálum með það fyrir augum að verða þátttakendur í baráttunni milli góðs og ills, sem geysar án afláts í öllum heiminum.

Við þurfum að fá sem flest fólk með okkur til að neyða núverandi ríkisvald og stjórnvöld til að breyta allri utanríkisstefnu Íslands svo að landið skipi sér í röð framsækinna ríkja heims.

Fyrsta skrefið er að móta okkur skýr markmið.

Sem tilraun í þá átt ætla ég að leggja hér undir dóm lesenda ákveðnar tillögur um höfuðkröfur til íslenskra stjórnvalda varðandi baráttuna á heimsmælikvarða.

Ég skipti þeim í tvo meginflokka og hef þær í áherslu-röð.


Í bækistöðvum Almannavarna. Greinarhöfundur vill auka stríðsvarnir á Íslandi.

I. Efnahagslegar og pólitískar kröfur

1. Kanaherinn verið látinn fara, Ísland gangi úr NATO og sæki um aðild að samtökum óháðra ríkja.
2. Viðskipti við þróunarlöndin verði aukin, en dregið úr viðskiptum við risaveldin, Bandaríkin og Sovétríkin.
3. Aðstoð íslenska ríkisins við þróunarlönd verði stóraukin.
4. Íslensk iðnaðaruppbygging miðist við þarfir Íslendinga og þróunarlanda og við nýtingu íslenskra hráefna eftir megni.
5. Gegn drottnun Alþjóðabankans og Alþjóðagjaldeyrissjóðsins yfir íslensku atvinnulífi.
6. Gegn erlendri stóriðju.

II. Kröfur gegn stríði og fyrir stríðsvörnum

1. Verksvið varnarmálanefndar Alþingis verði aukið.
2. Íslendingar verði sendir erlendis til að kynna sér nútíma hernað og varnir gegn honum.
3. Hafin verði almenningsfræðsla í viðbrögðum og vörnum gegn hverskyns hernaðarárásum og geislamengun.
4. Gerðar verði nákvæmar áætlanir um skyndiflutning fólks milli landshluta, þ.á.m. ef tæma þyrfti Stór-Reykjavík.
5. Byggð verði vönduð og nútímaleg loftvarnarbyrgi.
6. Tryggðar verði lágmarksbirgðir helstu nauðsynja í landinu og í öllum landshlutum er nægja að minnsta kosti til hálfs árs. Ísland stefni að því að verða sem mest sjálfbjarga með orku og helstu nauðsynjar.

framhald á síðu 5



# Kjósum Vigdísi!

Í komandi forsetakosningum verður sjálfsagt mjótt á munum milli sumra frambjóðendanna. Forsetakosningar eru léttvægari en alþingiskosningar og valda ekki eins miklu stjórnmálavafstri meðal alþýðu manna. En reynslan sýnir að góð þátttaka er venjulega í forsetakosningum hérlendis.

Ekki er ætlunin að ræða forsetaembættið í þessu greinakorni heldur mæla sérstaklega með einum frambjóðendanna. Kommúnistar munu eflaust ekki móta neina afstöðu til einhvers frambjóðenda sem samtök. Þess vegna tel ég brýnt að hvetja kjósendur til þess að taka áskorum minni um að kjósa Vigdísi Finnbogadóttur til forsetaembættisins. Vigdís er gædd mörgum hæfileikum til þess að gegna forsetaembættinu en þó vegur jafnréttissjónarmið þyngst í vali á henni til þessa starfa. Sú sókn jafnréttisbaráttunnar sem hefur þyngst verulega undanfarin ár myndi ná verulegum áfanga ef Vigdís tæki við lyklum Bessastaða.

Félagar í Einingarsamtökunum, Kommúnistaflokknum og aðrir lesendur Verkalýðsblaðsins- Stéttabaráttunnar: Kjósum Vigdísi.

Ari T. Guðmundsson

# Höfum við lært lexíuna?

Upp á síðkastið höfum við verið heldur þögul um ástand mála í Kína. Kínverjar hafa verið að gera ýmislegt sem menn virðast eiga erfitt með að láta passa við "teoríuna". Mig langar til að segja nokkur orð frá eigin brjósti og vona að það verði til þess að menn fari að skrifa í blaðið um Kína.

Nú síðustu mánuðina hafa margir af gömlum "endurskoðunarsinnum" verið endurreistir og menn eru farnir að líta fyrsta áratug sósíalismans í Kína jákvæðari augum. Á þessum áratug hófst sósíalísk iðnvæðnig og í árslok 1957 var sósíalískri umbreytingu í landbúnaði og iðnaði að mestu lokið. Í kjölfar fyrstu fimm ára áætlunarinnar (1953-1957) óx iðnframleiðsla um nær 50%.

Á þessum áratug fór alþjóðleg staða Kína mjög batnandi, ekki síst vegna þátttöku þess, ásamt Sovétríkjunum og öðrum friðaröflum í baráttunni fyrir alþjóðlegu öryggi og gegn heimsvaldastefnu og nýlendustefnu. Allir lýðræðissinnar og framsækið fólk horfði með ánægju á það hvernig nýtt frjálst ríki, sem átti stóran þátt í að breyta valdahlutföllum í heiminum í þágu sósíalismans, birtist í Asíu. Það er aldrei að vita hve langt mannkynið hefði náð á vegi félagslegra framfara ef kínverska byltingin hefði haldið áfram að þróast samsíða meginstraumum heimsbyltingarinnar.

### Hvenær fór allt til fjandans?

Hvenær vék Kína af þessari leið og hóf að fylgja stórveldastefnu sem beindist gegn vinsamlegum sósíalískum heimi og þjónaði engum öðrum en heimsafturhaldinu?

Þessu er erfitt að svara. Kínverjar segja sjálfir að allt hafi byrjað að versna þegar þeir tóku "stóra stökkið" árið 1958. Þeir tala um "glataða áratuginn" þegar Fjórmenningaklíkan á að hafa blekkt hinn aldraða Maó. En þetta er ekki einu sinni hálfur sannleikurinn. Það voru ekki tíu heldur tuttugu ár sem glötuðust.

**skiptar skoðanir**

Aðalsökin hvílir ekki aðeins hjá fjórmenningunum heldur í fyrsta lagi hjá "formanninum mikla" sjálfum.

Hin nýja forysta í Kína hefur reynt að leiðrétta nokkrar villur maóismans en enn hefur hún ekki gengið nógu langt. Lýðréttindi eru skert og allt efnahagslíf Kína miðar að því að gera það að herveldi. Kínverjar eru aldir upp í ofríkisstefnu og taka æ meiri þátt í stórveldapólitík.

### Hvert stefnir?

Fólk vill vita í hvaða átt Kína stefnir. Er ekki sú stefna að opna allt upp á gátt fyrir erlendu fjármagni, vaxandi áhrif borgarastéttarinnar í landinu og samvinna við heimsvaldastefnuna bein ógnun við sósíalismann í landinu?

Þó að sumum muni kannski virðist þessi orð mín heldur svartsýn og efasemdafull fer því fjarri að ég sé svartsýnn eða efist um framtíð Kína. Ég er þvert á móti mjög bjartsýnn á sósíalíska framtíð Kína, því að sá sósíalíski grundvöllur sem lagður var á fyrstu árum byltingarinnar er sterkur. Fyrr eða síðar mun kínversk alþýða fella sinn dóm yfir maóismanum og leiða marxísk-lenínísk öfl til forystu í landinu.

Guðgeir.

<u>Aths. ritnefndar.</u> Grein Guðgeirs, eða öllu heldur það sem hún gefur í skyn - einkum hvað varðar stöðu Kína gagnvart Sovétríkjunum og fylgiríkjum þeirra - er í hróplegri andstöðu við stefnu blaðsins. Í grein sem birtist í þessu tbl. og í greinaflokki sem mun væntanlega birtast í sumar verður reynt að varpa gagnrýnu ljósi á núverandi þróun mála í Kína og reynt að meta jákvæðar og neikvæðar hliðar hennar. Slíkt gagnrýnið mat er nauðsynlegt, því um er að ræða almenna afstöðu til sósíalismans og heimsmálanna sem ekki er neitt einkamál þeirra Kínverjanna.

Okkur finnst þó nauðsynlegt að birta grein Guðgeirs því í henni kemur fram afstaða og skoðanir sem finnast meðal allra hugsandi sósíalista á Íslandi, skoðanir sem ná inn í raðir íslenskra marx-lenínista. Þó verður að segja að Guðgeir sé nokkuð sér á báti með afstöðu sína. Flestir lýsa áhyggjum sínum yfir því að Kína sé að þróast til hægri. Guðgeiri finnst hins vegar ekki gengið nógu langt.

Gagnrýnin og hlutlæg athugum á þróun kínverska sósíalismans og stöðu heimsmálanna er nauðsynleg. Gagnrýnið og hlutlægt mat á "íslenskum maóisma" er ekki síður nauðsynlegt, því það varðar alla stefnumörkun okkar í framtíðinni, mótun stjórnlistar og baráttuaðferða við íslenskar aðstæður sem sameinar alþýðu landsins til baráttu gegn auðvaldsþjóðfélaginu.

*Kínverskir kommúnistar:*

# Afturhvarf til endurskoðunarstefnu?

Ekki verður komist hjá því að viðurkenna, að þróun mála í Kína á undanförnu ári eða tveim, hefur komið okkur marx-lenínistum á Íslandi á óvart. Svo mjög á óvart, raunar, að ekki hefur enn verið skrifað í þetta blað um stefnubreytingar þeirra Kínverjanna. Það er tilbreyting frá því sem áður var, þegar heilu opnurnar voru lagðar undir frásagnir af sósíalismanum í Kína. Það þarf varla að taka það fram, að allar voru þessar frásagnir vita gagnrýnislausar. Það var kannske ekki allt gott í Kína - en það sem aflaga fór á þeim slóðum var ekki til umræðu á síðum blaðanna, Verkalýðsblaðsins og Stéttabaráttunnar. Þess verður þó að geta í leiðinni, að flestu slíku héldu Kínverjar sjálfir vandlega leyndu.

## Glansmyndin

Að ýmsu leyti hefur það enn ekki breyst, að Kínverjar eru lítt iðnir við að senda út fréttir um slæmu hliðarnar á þjóðfélagi sínu. Við hér á Íslandi fáum engar myndir sendar af biðröðum atvinnuleysingja, tölur um verðhækkanir fást ekki birtar, vöxtur glæpa ef einhver er er ekki handa vestrænum fréttamönnum til að leggja út af. Við hér á VBL-STB látum okkur slíkt þó í léttu rúmi liggja, þetta eru mál sem kínversk alþýða verður að leysa. Við Íslendingar höfum nóg af slíku fyrir okkur sjálfa.

Hins vegar hafa Kínverjar ekki farið leynt með ýmsar mikilvægar og afdrífaríkar breytingar sem þeir hafa gert á stefnu sinni og í afstöðu sinni til ýmissa almennra viðfangsefna marxískrar heimsskoðunar, þótt ýmsar mikilvægar röksemdir fyrir slíkum breytingum liggi kannske ekki á lausu á aðgengilegu tungumáli.

Það eru þessar stefnubreytingar sem varða kommúnista á Íslandi miklu. Þær eru ekki einkamál Kínverja



Hua Kuo-feng heilsar Berlinguer, oddvita ítalskra endurskoðunarsinna.

- heldur varða afstöðu gervallrar heimshreyfingar kommúnista til fræðikenningar sósíalismans, til uppbyggingar sósíalisma, endurskoðunarstefnunnar og heimsvaldastefnunnar.

## Líu Sjaó-sjí hampað

Ekki er hægt í þessari grein að tíunda allar þær breytingar sem Kínverjar hafa gert í afstöðu sinni til þessara almennu viðfangsefna sósíalismans. Þessar eru þó helstar:

Þeir hafa snúist gegn þeirri staðhæfingu frá tímum menningarbyltingarinnar, að ekki sé enn ljóst hvort muni sigra, sósíalisminn eða kapitalisminn. Þeir hafa hafnað þeirri kenningu að stéttabaráttan haldi áfram eftir sigur sósíalismans. Í grein í Bejing Review nr. 16 á þessu ári er reynt að útskýra endurreisn Liu Sjaó-sjís. Þar er ýmsum frægum staðhæfingum Líus haldið á lofti sem "réttum og marxískum, hvort sem þær eru skoðanir með tilliti til nútímans eða þess tíma sem þær voru sagðar (1956)." Þessar staðhæfingar eru m.a.: "Landeigendastéttinni hefur verið útrýmt og borgarastéttinni hefur einnig í aðalatriðum verið útrýmt." "meginþættir stéttabaráttunnar heima hafa verið leystir í grundvallaratriðum." "spurningunni, hvorir eigi eftir að sigra kapitalisminn eða sósíalisminn hefur nú verið svarað í landi okkar."

## Endurskoðun í Sovét?

Staðhæfingar Líu Sjaósjís, sem kínverski flokkurinn eignar sér nú, eru ekki einkamál Kínverja. Hér er um að ræða almennar staðhæfingar sem varða alla kommúnistahreyfinguna í heiminum miklu.

Hver er höfuðmóthverfan í sósíalísku ríki, er stéttabaráttan drifkraftur þróunarinnar í sósíalisma, getur borgarastéttin sigrað eftir að búið er að rýja hana framleiðslutækjunum?

Á tímum menningarbyltingarinnar reyndu kínverskir kommúnistar að svara þessum spurningum. Marx-lenínistar á Vesturlöndum, þ.m.t. íslenskir marx-lenínistar hafa líka fengist við þetta vandamál.

Reynslan af þróun sovéska kommúnistaflokksins og Sovétríkjanna hefur verið helsti prófsteinninn á réttmæti kenninga menningarbyltingarinnar og marx-lenínísku hreyfingarinnar á Vesturlöndum. Við höfum hingað til haldið og höldum enn fast við þá staðhæfingu að stéttabaráttan sé höfuðdrifkraftur þjóðfélagsþróunarinnar í langan tíma eftir að borgarastéttin hefur verið svipt eignum sínum. Við höfum haldið og höldum enn fast við þá staðhæfingu að borgarastéttin getur náð aftur völdum í gegnum endurskoðunarsinna innan kommúnistaflokksins.

Afturhvarf Kínverja til staðhæfinga Líú Sjaó-sjís er afturhvarf til þeirra tíma er kommúnistar trúðu því ekki að kommúnistaflokkur gæti orðið endurskoðunarstefnu að bráð og borgarastéttin komist aftur til valda eftir eignasviftingu hennar.

Næsta skref kínverska kommúnistaflokksins, ef rökvísin bregst honum þá ekki, hlýtur að vera að viðurkenna Sovétríkin sem sósíalísk og afskrifa tillag Maós til marxismans á sjöunda áratugnum. Eða hvernig gátu Sovétríkin skipt um lit, úr því að borgarastéttinni hafði verið útrýmt árið 1930 (skv. Stalín) og spurningunni hvor myndi vinna, kapitalisminn eða sósíalisminn, verið endanlega svarað?

## Greinaflokkur á næstunni

Í sumar og haust munum við að öllu óbreyttu reyna að gera stefnubreytingum kínverska kommúnistaflokksins og framvindunni í Alþýðulýðveldinu Kína ítarlegri skil, svo og afstöðu okkar marx-lenínista til þeirra atriða sem varða almenna afstöðu til sósíalismans, stéttabaráttunnar og byltingarinnar. Þessi skrif verða liður í nauðsynlegri umræðu íslenskra marx-lenínista í undirbúningi að ritun nýrrar stefnuskrár fyrir sósíalismann á Íslandi.

óhs

framhald af forsíðu

*Jan Mayen samkomulagið:*

# SANNGIRNI FYRIR SUMA

## Ekki "lífshagsmunir"

Um loðnustofninn var þannig samið að Norðmenn fengju að veiða 15% af heildaraflanum sem Íslendingar ákvæðu. Það gildir í 4 ár, auk þess sem Norðmenn eru óbundnir af þessu ef þeim finnst aflakvótinn ósanngjarn.

Ástæða þess að íslenska samninganefndin lét sér þetta nægja er að sjálfsögðu sú að hér eru, eins og sakir standa um enga "lífshagsmuni" að tefla. Á undanförnum árum hefur aðeins lítill hluti loðnunnar flakkað til Jan Mayen svæðisins - vafalaust ekki síst vegna ofveiði á stofninum.

Hafsbotnsréttindin við Jan Mayen voru aldrei og eru ekki mikið mál, nema þá í málflutningi andstæðinga samkomulagsins. Það er gert mikið úr hugsanlegum olíuborunum á svæðinu. Að mati jarðfræðinga er þó Jan Mayen svæðið eitt af þeim síðustu í heiminum þar sem olíu verður leitað, svo ólíklegt þykir að hún finnist þar. Önnur jarðefni finnast þar vafalaust, en í jafnmiklum mæli og meiri á aðgengilegri og ónytjuðum hafsbotnum annars staðar. Það er varfærið að gera ráð fyrir að einhvern tímann milli áranna 2300 til 2500 verði farið að krukka í hafsbotninn við Jan Mayen, ef þá nokkurn tímann.

## Útilokun Grænlands er stærsta málið

Samkomulagið um Jan Mayen virðist viðunanlagt ef miðað er við þá hagsmuni sem liggja því til grundvallar.

Sé málið skoðað í heild er þó loðna orðalagið um 200 mílurnar sem skipta mestu, því það beinist að því að Grænlendingar fái ekki sama rétt og Íslendingar. Þetta er rökstutt með því að Efnahagsbandalagið njóti eitt góðs af grænlenskum auðlindum. Því hafi Grænlendingar sjálfir engra hagsmuna að gæta í raun.

Þessi röksemdafærsla er dæmigerð fyrir yfirgangs- og ásælnisstefnu auðvaldsins. Það er skýlaus krafa að Grænlendingar njóti sama réttar og Íslendingar, þ.e. fullar 200 mílur í átt til Jan Mayen. Efnahagsbandalaginu var troðið upp á Grænlendinga gegn vilja 80% þjóðarinnar. Það verður eitt af fyrstu verkum þeirra að losa sig við það.

Mat á Jan Mayen samkomulaginu getur því hljóðað svo:

Það er mikilvægt og nauðsynlegt að komast að samkomulagi um fiskveiðilögsögu í kringum Jan Mayen, og mikilvægt að láta sanngirnissjónarmið ráða ferðinni í slíku samkomulagi. En samkomulag milli tveggja þjóða sem skerðir rétt þriðju þjóðarinnar er heimsvaldastefna af versta tagi. Það getur þjónað íslensku auðvaldi en alþýða Íslands, Noregs og Grænlands hefur ekkert með slíkt samkomulag að gera.

óhs.

## *Kommúnistasamtökin stofnuð*

framhald af forsíðu

málaályktun þar sem einnig er kveðið á um verkefni samtakanna í næstu framtíð. Að síðustu voru samþykkt lög hinna nýju samtaka.

Öll þessi plögg verða birt í næsta tölublaði VBL svo ekki er ástæða til að tíunda efni þeirra nákvæmlega hér og nú.

Þó skal á það bent að stofnsamþykktin verður tekin til endurskoðunar á næstu mánuðum og þá tekið tillit til þeirra hluta sem urðu útundan í afgreiðslunni á stofnfundinum.

### Tvö verkefni í fyrirrúmi

Segja má að starf Kommúnistasamtakanna á næstu mánuðum samkvæmt verkefnaskrá samtakanna muni beinast í tvo farvegi. Annarsvegar umræður um stefnuskrá og stefnu í einstökum dægurmálum eftir því sem við á hverju sinni. Samfara því verði lögð rík áhersla á styrkingu og eflingu málgagns samtakanna, Verkalýðsblaðsins, sem og á innviði samtakanna sjálfra. Hinsvegar er samtökunum lífsnauðsyn að efla starf sitt meðal fjöldans, innan ýmissa fjöldahreyfinga, t.a.m. Samtaka herstöðvaandstæðinga, Rauðsokka, stéttarfélaga auk annarra, og vinna þar að framgangi stefnumála sinna.

Þetta tvennt verða höfuðmál samtakanna næstu mánuði og brýna nauðsyn ber til þess að sameina starfið að þessum verkefnum eftir því sem við verður komið.

### Forysta samtakanna

Á fyrsta fundi miðstjórnar Kommúnistasamtakanna var kosið í embætti miðstjórnar og valdir opinberir talsmenn samtakanna.

Formaður var valinn Ari Trausti Guðmundsson en varaformaður Gunnar Andrésson. Aðrir opinberir talsmenn eru Kristinn Einarsson og Eiríkur Brynjólfsson.

eb.

## *Óumdeildur sannleikur*

framhald af síðu 4

Kröfur þessar verður að skoða í samhengi. Grunntónninn í þeim er annars vegar að Ísland slíti sig laust úr klóm risaveldanna og skipi sér í félagsskap óháðra ríkja og reyni þannig að draga úr styrjaldarhættunni. Hins vegar verði horfst í augu við styrjaldarhættuna og reynt að draga sem mest úr hugsanlegum skaða sem styrjöld myndi óhjákvæmilega valda.

Það er til mikils að vinna.

Þorvaldur Örn Árnason

VERKALÝÐSBLAÐIÐ
Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!
Stéttabaráttan

Lausasala: kr. 300
1.árs áskrift: kr. 5.000
Stuðningsáskr: kr.10.000
Áskr. til útl: kr. 8.500

10. tbl. 9. árg. — 27.5.—10.6.



*Stigmagnandi heimsvaldaríki*

# Þessu horfa Rússavinir framhjá

Sumir hafa augu en sjá ekki neitt. Sumir fylgjast með en skilja ekki neitt. Þessir sumu eru þeir sem stóðu að Rauðri Verkalýðseiningu 1. maí og aðrir vinir Sovétríkjanna.

Í dreifiriti til greinargerðar aðgerðum RVEI er hárfínt sneytt hjá því að minnast á heimsvaldaríkið Sovétríkin. Það er talað um Kremlfasismann sem skrifræði í verkalýðsríki.

1968 – 1980.

:: Ágúst 1968. Ráðist inn í Tékkóslavakíu og skipt um stjórn. Tékkóslóvakía hernumin til frambúðar. Kenning Brésneffs um rétt Sovétríkjanna til að gæta eigin hagsmuna með hervaldi í "hinum sósíalíska heimi" (A-Evrópa og Móngólía) verður til.

:: 1975. Stórfelldir hergagnaflutningar og fjöldi sovéskra ráðgjafa til Angólu. Sovésk loftbrú flytur kúbanska hermenn í tugþúsundatali til Angóla. Einni þjóðfrelsishreyfingunni MPLA er hjálpað til að sigra tvær þjóðfrelsishreyfingar FNLA og UNITA, eftir að allar þrjár höfðu sameiginlega unnið sigur í þjóðfrelsisstríðinu án hjálpar Sovétríkjanna. Kúbuhermannapólitík Sovétríkjanna verður til.

:: 1977 – 1978. Angólumunstrið notað í Eþíópíu. Herforingjastjórninni eru send vopn, ráðgjafar og kúbuhermenn. Undir ráðgjöf Sovétríkjanna er napalmsprengjum varpað á bændur í Eritreu. MIG-herflugvélar skjóta á frelsaða bæi.

:: Júní 1978. Forseti Suður-Jemen settur af í blóðugu valdaráni, þar sem kúbanskir og sovéskir hermenn tóku þátt. Hermenn þessir hafa síðan fast aðsetur í S-Jemen samkvæmt "vináttusamningi".

:: Janúar 1979. Víetnam gerir skyndisókn inn í Kampútseu með miklum herstyrk og hernemur hluta landsins. Með herjum Víetnam fylgdu sovéskir ráðgjafar og vopnaforði Víetnam er nýjasta nýtt frá Sovétríkjunum. Í stað nokkur tugþúsund kúbuhermanna er tvöhundruð þúsund manna innrásarher.

Munstrið frá Angólu og Eþíópíu er fyrir hendi, en heldur grófara. MPLA í Angólu var rótgróin þjóðfrelsishreyfing og herforingjastjórnin í Eþíópíu var lögleg ríkisstjórn landsins. Í því skini að hafa eitthvað til að hengja sig á var sett á laggirnar "hreyfing í Kampútseu" fáum mánuðum fyrir innrásina og hreyfing þessi var stofnuð í Víetnam. Í Kampútseu beitir innrásarherinn gas- og eiturhernaði.

:: Desember 1979. Afganistan hernumið. Að baki innrásinni í Afganistan er að finna sama munstrið og í áðurtöldum dæmum. Vinsamleg stjórn gerir vináttusamning. Vinsamlega stjórnin á í erfiðleikum og kallar á hjálp. Sovétríkin eru óánægð með það hvernig vinsamlegu stjórninni gengur að verja sig og sendir mikið herlið á vettvang. Drepur foringja vinsamlegu afgönsku stjórnarinnar og setur annan í hans stað. Vinsamlega stjórnin blæs því út að þetta sé allt um að kenna "heimsvaldaásælni" og að um sé að ræða "vörn fyrir afgönsku byltinguna". Bandaríkin og Kína styðja afturhaldið og afturhaldið eru afganskir bændur og hirðingjar.



21. ágúst 1968 í Prag.

Kenning Brésneffs um rétt Sovétríkjanna til hernaðaríhlutunar á "hinu sósíalíska svæði" nær ekki lengur yfir allt þetta. Nú hefur kenningin verið víkkuð og gæti hljóðar svo: "Hægt er að setja af stað stríð gegn Sovétríkjunum og hinum sósíalísku ríkjum með beinni árás á Sovétríkin eða önnur sósíalísk lönd, en það gæti líka verið afleiðing einhvers árásargjarns staðbundins stríðs gegn einhverju ekki-sósíalísku landi ef stríð þetta skaðar grundvallarhagsmuni hinna sósíalísku landa og ógnar friðinum í heiminum." (Tilvitnunin er úr bókinni Sovésk herstjórnarfræði – "Vojennaja Strategia".)

## Gömul tugga

Það sem talið var upp hér að framan eru nokkur atriði úr heimsvaldastreði Sovétríkjanna. Getur einhver sagt svipaða sögu af Bandaríkjunum s.l. 12 ár? Svona upptalningu var hægt að gera fyrir Bandaríkin áður fyrr, þ.e. á sjötta og sjöunda áratugnum – ekki lengur. Og ekki er það fyrir þá sök að Bandaríkin séu orðin eitthvað skárri í heimsvaldapólitík sinni, heldur vegna þess að þau geta einfaldlega ekki meira. Vald þeirra er rénandi, skrúfan í botni og þau eru að tapa fyrsta sætinu í risaveldakapphlaupinu til Sovétríkjanna. Bandaríkin geta bitið frá sér, þau eru enn hernaðarlegt stórveldi. Það er samt svo að þessum breytingum í valdapólitík risaveldanna fylgir líka breyting á því hvaðan hættan á stríði er mest.

–Æ.



Hermenn EPLA í Eritreu sýna hér hertekinn sovéskan T-54 skriðdreka.



Frá heræfingu Varsjárbandalagsins.

# Samtaka baráttu gegn skerðingaráformum

Vísitalan er enn umræðuefni. Borgaralegu stjórnmálaflokkarnir hafa áhuga á að skerða kaupgreiðsluvísitölu niður umfram Ólafslög. Holhljómurinn í mótmælum krata og íhalds gegn slíku er yfirgnæfandi. Allir vita hvar þeir standa þegar um laun verkafólks er fjallað. Það þýðir ekki að treysta á að íhaldið og kratar standi gegn frekari niðurskurði á kaupgreiðsluvísitölunni.

Það þýðir heldur ekki að treysta á að Alþýðubaldalagið beiti "stöðvunarvaldi" sínu gegn fyrirætlunun framsóknamanna og gunnarsmanna. Það þýddi slit stjórnarsamstarfsins og við því má flokkurinn ekki.

Það er með samtaka baráttu verkalýðsins sem skerðingaráformum auðvaldsins verður hvekkt. Með því að taka frumkvæðið af ónytjungsforystu ASÍ og BSRB verður hinu raunverulega stöðvunarvaldi beitt. Öll þau stéttarfélög og öll þau öfl sem hafna stjórnarhollustu verkalýðsforystunnar verða að standa í fararbroddi ef takast á að stöðva áform auðstéttarinnar og sækja nýjar kjarabætur í greipar hennar.

óhs.

# „Þróunarhjálp“ Sovétríkjanna

Mönnum er enn í fersku minni flóttamannastraumurinn frá Viet Nam. Þarlend yfirvöld höfðu skýringar á reiðum höndum. Fólkið var allt eignafólk að flýja jafnrétti sósíalismans, óvinir byltingarinnar og samsærismenn erlendra heimsvaldasinna. Nú er svipað á ferðinni á Kúbu og skýringarnar þær sömu. Auðvitað er eigna- og afturhaldsfólk með í straumnum en stór hluti er alþýðufólk – en það er reynt að fela með lygum.

Í sjónvarpsþætti (Umheimurinn) stóð ekki í Ingibjörgu Haraldsdóttur að verja og útskýra fólksflóttann, fremur en hún kvíar sér við að stofna vináttufélag við ríki sem hefur hernumið annað land og heldur það uppi kvislingastjórn – Viet Nam.

Í þessum þætti var að mestu sneitt hjá kjarna málsins varðandi Kúbu. Hann er sá að Sovétríkin hafa gert Kúbu að hráefnabanka fyrir sig og eyðilagt ávinninga kúbönsku byltingarinnar ef frá er talin ýmis félagsþjónusta. Ekki er nóg að benda á öngþveiti í stjórn landsins og uppskerubresti eins og Magnús Torfi gerði þó.

Reyndar gat hann um 4 milljarða kr. "styrk" á dag árið um hring sem þeir Kremlverjar sendu Kúbönum. Féð fer m.a. til félagsmála hermála og fyrirtækja, skýrir sumt af því jákvæða á Kúbu, en umfram allt: Gerir stjórnmála- og efnahagslíf Kúbu mjög háð Sovétríkjunum. Til viðbótar koma svo hráefniskaup Comecon. Um 75% af þjóðartekjum Kúbu koma úr þessari átt og er alls ekki um unna vöru að ræða. Þessi hluti fer vaxandi og ekkert bólar á breyttri stefnu af hálfu Sovétríkjanna.

Ónefnd er sú staðreynd að 37.000 hermenn, flestir úr hópi röskra og ungra manna, eru í Afríku, uppteknir við að troða gerfibyltingum upp á alþýðu þar eða drepa Eritreumenn og andstæðinga "sósíalistans" Mengistu í Eþíópíu. Hvað skyldi þetta kosta?

5 milljónir Kúbumanna ku hafa tekið þátt í fjöldaaðgerðum til að fordæma flottamennina. Þung rök gegn því sem hér stendur ef sönn eru. En hvað ef talan er tilbúin og hvað um allar óánægjuraddirnar á Kúbu?

– agé.